# Acta
# Yfirréttarins
á
# Íslandi,
fyrir árin 1763-1767.



Leirárgørdum vid Leirá, 1802.
Prentud á kostnad Sekretéra B. Stephensens,
af Factóri og Bókþryckjara Schagfjord.



Annó 1763, þann 14da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns M. Gíslasonar, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi yfir-rettar stefnu af 20ta Júlí 1762, med hvorri Løgmadur S. Sølvason er stefndur ad mæta og forsvara fyrir þessum Retti, sinn úrskurd og dóm, afsagdann 14da Júlí, s. á., móti Sýslumanns E. Olafssonar ákjærum. Einnig stefnist Sýslumadur P. Gudmundsson, sem Aktor í málinu; stefnan lesin og merkud lit. A. Løgmadur S. Sølvason mætir sín eginn vegna, en Løgrettumadur Jón Jónsson frá Stranda-sýslu vegna Aktoris. Sýslumadur E. Olafsson setur í rett: ad Amtmadur M. Gíslason, er sig hafi súspenderad, se þessu máli interesseradur, hvar uppá Amtmadurinn yfirgaf sæti

 sitt,

sitt, sem Præses, og yfirliet þad Landfógeta S. Magnússyni, er í hans stad præsideradi, eptir Hra. Amtmannsins brefi þar um af dags dató, sem var lesid og markad lit. B. Líka svo forliet Sýslumadur M. Ketilsson Rettinn, sem tilskickadur Aktor í þessu máli fyrir Logþíngis rettinum 1761. Þessu nærst var framlagdur Logþíngis Prófess og dómur, genginn í málinu 1762, med hvorjum Sýslumadur E. Olafsson, er dæmdur frá Sýslumanns Embættinu, og í sextógi lóda sylfurs bætur. Prófessinn lesinn og markadur lit. C. Logmadur S. Sølvason uppástendur: ad Sýslumadur E. Olafsson, annadhvort medgáugi Sýslumanns S. Sigurdssonar vitnateckir í Prófessinum gyldar og gódar, edur og ad málid frávisist, þar Sýslumadurinn se ecki stefndur. Þar til svarar Sýslumadur E. Olafsson: ad hann hafi ecki haft nockra naudsynlega orsök ad stefna Sýslumanni S. Sigurdssyni fyrir þenna Rett; hjer ákelji hann einúngis ofhardann dóm Logmannsins, en ecki Herads vitnaleidslu Sýslumannsins, og framlagdi þar nærst innlegg af 12ta Júnis, í hvorju hann demonstrerar sitt sakleysi um forsómun og hjáhlidrun í ad inqvirera í þessu mords máli, og uppástendur: ecki einúngis ad Logmanns S. Sølvasonar dómur verdi upphafinn, heldur ad hann og Aktor verdi tilfundnir ad betala ser ánægjanlega Satisfaktión, sem innleggid framar sýn..., lesid og markad lit. D. Logmadurinn uppástendur

munn-

munnlega: ad sinn dómur verdi stadfestur, svo sem hann se á kónglegum lögum og tilskipunnm grundvalladur, en yfirlætur til Rettarins álits, hvört hann í nockurn máta kunni ad linast, og fráfellur Satisfaktión og málskostnadi. Løgrettumadur Jón Jónsson framlagdi innlegg af 27da Júní nærstlidna, undir nafni Sýslumanns P. Gudmundssonar, í hvörju hann refererar sig til sinna, fyrir Løgþingis-rettinum nærstlidid ár, gjørdu Jrettesættelser, og bidur, ad þær verdi løglegar álitnar, en sér tildæmist kostur og tæring af Sýslumanni E. Olafssyni; innleggid lesid og markad lit. E. Þar málspartarnir gvádust eckert meira hafa fram ad færa, var af Yfir-rettinum eptirfylgjandi Dómur í málinu afsagdur:

Af vitnum Jóns Egilssonar og Magnúsar Sigmundssonar, sem þeir med eidum stadfest hafa á Hóls þingi 1760, er fullkomlega sannad: ad mordínginn Bjarni Kolbeinsson, hafi fyrir Sýslumanni E. Olafssyni angéfinn verid í þeirra, sem votta, vidurvist, fyrir mord á Sigrídi Jónsdóttur, af bródur hans og medvitara i sama verki Jóseph, Kolbeinssyni, nær 4 árum ádur; og svo lengi hefir Sýslumadurinn forsómad og látid hjálída málid ad ransaka og dæma, allt þar til hann árid 1760 feck Hra. Amtmanns M. Gisláсonar skipun þar um, hvörri hann þó seinlega og ófullkómlega hefir eptirlifad, ecki heldur forsvaranlega mordíngjann í arresti

 hald-



haldid, svo Hra: Amtmadurinn mátti skicka einn annann vid málid ad gjøra; en ad mordid á Sigrídi Jónsdóttur, sem þetta mál afrís, hafi Sýslumanni verid til vitundar gèsid fyrr enn 1756, er hèr ecki sannad, jafnvel þó sama mord morgum árum fyrri innan Sýslu skèd hafi. Þessa hans forsómun og óheyrilega hjáhlidrun í svo áríðandi máli, sanna nóglega í Héradi tekin þíngsvitni; því dæmist rètt:

Sýslumadur E. Olafsson skal, fyrir sitt óforsvaranlega hyrduleysi í þessu máli, hafa forbrotid sína dómara Bestilling, og ecki framar Sýslumanns embætti þéna; en fyrir frekari útlátum er hann fríkénndur, og ad því leiti Logþíngis dómurinn modereradur.

*Actum ut supra.*

S. Magnússon.

B. Markússon.    O. Stephánsson.
J. Olafsson.    S. Sigurdsson.
B. Sigurdsson.    P. Magnússon.
B. Haldorsson.    Þ. Þorsteinsson.
D. Schéving.    G. Runólfsson.
J. Eggértsson.    P. Axelsson.
Olafur Jónsson.    Olafur Bjørnsson.
Jón Jónsson.    Jón Þorgeirsson.

# Num. II.

Þann 15da Júlí mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur B. Haldórsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 3ja Aug. 1762, med hvörri stefnist Lögmadur S. Sölvason, ad forsvara einn af honum þann 13da Júlí, s. ár afsagdann Lögþingis dóm. Lika svo stefnist Þorsteinn Gudbrandsson, sem málspartur, ad forsvara sína Aktión í málinu, og bádir ad þola endilegann Yfir-rettar dóm, sem stefnan framar med ser ber, lesin og mörkud lit. A. Sýslumadur M. Ketilsson framlagdi Amtmanns M. Gíslasonar skipun til sín, af 7da Húius, ad gánga í rett, sem talsmadur, Þorsteins Gudbrandssonar vegna, lesin og mörkud lit. B. Þar næst framlagdi Sýslumadur B. Haldórsson Lögþingis Prósess og dóm í þessu máli, med hvörjum Sýslumadurinn er tildæmdur ad betala 10rdli til Þorsteins Gudbrandssonar, fyrir ofhastarlegann dóm í sökinni, sem Prósessinn med ser færir, lesinn og markadur lit. C. Sýslumadur B. Haldórsson beidist: ad sökum þess hann meini Amtmann M. Gíslason vera þessu máli interesseradann, þar hann í því hafi útgefid Ordres, svo mætti honum þóknast ad yfirláta einum ödrum, ad præsidera í Yfir-rettinum í sinn stad, hvad Amtmadurinn einnig eptirljet, med skriflegri fullmakt þar um til Landfógeta S. Magnússonar, lesin og mörkud lit. D. En Yfir-rettarins Assessórer prótesterudu skriflega á móti þessari

Sýslumanns B. Haldórssónar innvendíngu, og þeckir ecki Amtmanninn vera málinu viðkomandi, sem Prócessin framar sýnir, lesið og markað lit. E. Múnnlega uppáḥóð Sýslumadur B. Haldórssón: ad Lögmadur S. Sölvason hafi fyrst í dómi sínum álitið sig hast hafa billega orsök, ad sundra samvistir Gudbrands Arasonar og Margretar Jónsdottur, en þó sídar í sama dómi, tilfundið sig ad betala peninga múlkt, er hann meinar hvert ödru gagnstædt, og uppásiendur því, ad Lögmannsins dómur verdi ad engu gjördur, en ser tildæmd Reparatión og málskostnadur, og refererar sig enn framar til sins innleggs fyrir Logþíngisrettinu. Lögmadur S. Sölvason uppásiendur þarámóti: ad sinn Dómur verdi stadfestur; en Sýslumadur M. Ketilssón uppásiendur kost og tæríngu, síns Prinsipals vegna. Meira framfærdu ecki partarnir í þessu máli, hvers vegna þar í var eptirfylgjandi dómur af Yfir-rettinum afsagdur:

Jafnvel þó Margret Jónsdóttir hefdi um þad stórmæli riktud verid, sem P. estur hennar og þíngmenn hafa framfært, þó óbevísad, fyrir Sýslumann B Haldórssón á Stadar þíngi, þann 14da Maji 1759, þá bar þo Sýslumanninum fyrr ad ransaka um riktisins ásiakomulag og grunddoll, enn ad dæma nefnda Margrétu Jónsdóttur, öldúngis ófyrirkallada, ódvarada og óvitandi,

ad

ad flýja sitt heimili og kirkju-sókn, undir vid-
liggjandi húdláts refsingu; þvi dæmist rétt:

Sýslumadur B. Haldórsson skal, eptir Logþingis domi í þessu máli, betala til Þorsteins Gudbrandssonar, ektamanns Margrétar Jónsdóttur, 10 rdli, í Reparatsion og máls-kostnad, svo vel til þessa sem Logþingis-réttarins, er luktir skulu vera innan nærstkomandi Michaelis-messu, undir adfør og Exekútsion. *Actum ut supra.*

M. Gíslason.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | O. Stephánsson. |
| S. Sigurdsson. | B. Sigurdsson. |
| P. Magnússon. | S. Sigurdsson. |
| Þ. Þorsteinsson. | G. Runólfsson. |
| V. Schéving. | J. Eggértsson. |
| P. Axelsson. | Jón Jónsson. |
| Olafur Jónsson. | Olafur Bjørnsson. |
| Jón Jónsson. | Jón Þorgeirsson. |

## Num. III.

Sama eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur P. Þorsteinsson, og framlagdi Amtmanns M. Gíslasonar Skickun til sín, af 9da Július, ad prókúre-

ra ſek Jóns Arnaſonar móti Løgmanni B. Markúsſyni og ødrum vidkomendum í málinu; leſin og merkud lit. A. Einnig framlagdi nefndur Sýſlumadur Yfirrettar ſtefnu, af 4da Dec. 1762, med hvørri ſtefniſt: 1.) Løgmadur B. Markúsſon, til ad forſvara ſinn afſagdann Løgþingis dóm; 2.) Sýſlumadur L. Gudmundsſon; 3.) fyrrum Sýſlumadur B. Nikolásſon, og 4.) Jón og Isleifur Gudmundsſynir, til ad forſvara ſinn umgáng í ſøkinni, ſem ſtefnan framar med ſer ber, leſin og merkud lit. B. Enn þá framlagdi Sýſlumadur P. Þorſteinsſon konúnglega allranádugaſtu Uppreiſn af 12ta Martſí 1762, til ad innſtefna þeſſum Løgþingis dómi, ſem var leſin og merkud lit C. Líka ſvo allranádugaſta Beneficium Paupertatis, af ſama dató, leſid og markad lit. D. Sýſlumadur L. Gudmundsſon, af Rettinum uppþrópadur, mætir ecki eda nockurr hans vegna. Løgmadur B. Markúsſon mætir, og proponerar, hvørt ſøkin ſkuli fyrirtakaſt, fyrſt Sýſlumadur L. Gudmundsſon ecki mæti, ſem þó ſe høfudmálspartur í ſøkinni. Sýſlumadur P. Þorſteinsſon próteſterar allt uppihald, og bidur um Yfirrettarins áłyktun hier um, ſem þannig var afſøgd:

Þar ſtefnan med ſer ber Sýſlumanns L. Gudmundsſonar þeckjanlega uppáſkrift, ſvo kann ecki uppá Løgmanns B. Markúsſonar Própoſitión ad reflecteraſt,

ast, heldur skal málid hafa sinn hindrunarlausann framgáng.

Sýslumadur P. Þorsteinsson framlagdi Løgþíngis Prófess og dóm í þessu máli, í hvørs slúttníngu Hierads dómur Sýslumanns L. Gudmundssonar er stadfestur, svo vidt hofud-sakina snertir, sem hann framar med ser ber, lesinn og markadur lit. E. Enn þá framlagdi Sýslumadur P. Þorsteinsson innlegg af dags dató, hvar í hann framfærir þær ástædur, sem Jóni Arnasyni kunni ad vera til afsøkunar m. m., lesid og markad lit. F. Løgmadur B. Markússon framlagdi innlegg af dags dató, sinum Løgþíngis dómi til styrkíngar, lesid og markad lit G. Innlegg var einnig framlagt frá fyrrum Sýslumanni B. Nikolássyni af 4da. Júni nærstl., sem er hans afsakan mót kontrapartinum, lesid og markad lit. H. Umbód til Gunnars Jónssonar frá Jóni og Isleifi Gudmundssonum, var í Yfir-rettinn framlagt, ásamt innleggi þeirra vegna, af 14da. húius, sem var lesid og markad litt. I og K. Meira framfærdu ecki partarnir í sókn edur vørn, var því af Yfir-rettinum svolátandi dómur í málinu afsagdur:

Þad er med løgfostum vitnum nóglega sannad, ad sú sama ull, sem stolin var ad uppbrotnu-húsi og hyrdslum, ásamt ødrum fémunum, nóttina milli þess 2ars og 3ja Okt. 1758, á Nordurgardi, er sem virkilegur þjófs-fóli fundinn nærsta dag eptir, hjá Jóni

Arna-



Arnasyni, koninum á ferd med hana burt úr sveitinni og sýslunni, ad hvorri hann, eptir undangengna tregdu og veigrun, um sídir lýsti sinn heimildar-mann, einn løgfelldann, ad nafni Þorstein Vigfússon, hvad hann þó aldrei hefir kunnad ad sanna; heldur hefir nefndur Þorsteinn frálagt sér hans framburd med eidi; þvi dæmist rétt:

Þeir affsøgdu Hérads og Løgþíngis dómar í þessu máli eru, hvad adal-sokina snertir, hér med stadfestir; en þar Exekútsiónen yfir sakamanninum hefir framfarid of hastarlega, þá skal Sýslumadur L. Gudmundsson betala til fátækra í Mýrdal 4 rdl. krón., og til Jóns Arnasonar 4 rdl., hvørja 8 rdl. krón. Sýslumadurinn skal hafa betalad til hlutadegenda innan nærstkomandi Michaelis-messu, undir adfør og Exekútsíón. *Actum ut supra.*

M. Gíslason.

| | |
|---|---|
| S. Sølvason. | O. Stephánsson. |
| J. Olafsson. | B. Sigurdsson. |
| P. Magnússon. | B. Haldórsson. |
| M. Ketilsson. | V. Schéving. |
| S. Sigurdsson. | J. Eggértsson. |

Þ.

P. Axelsson. Jón Jónsson.
Olafur Jónsson. Olafur Bjørnsson.
Jón Jónsson. Jón Þorgeirsson.



Annó 1764, þann 14da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessorum.

NUM. I.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi honum af konúnglegri Hátign allramildilegast útgefna Opreisning, af 8da. Apr. 1763, ad mega uppátala og innstefna fyrir þennann Yfir-rett, eptir Fata Apellationis, einum af Løgmanni S. Sølvasyni afsøgdum Løgþíngis dómi, milli Citanten og Hákonar Jónssonar, samt annara vidkomenda, sem Opreisningen framar sýnir, lesin og mørknd lit. A. Því næst var framløgd Yfir-rettar stefna af 19da Júlí 1763, med hvørri innstefnast Løgmennirnir S. Sølvason, sem Dómari og Jón Olafsson sem Prókúrator í Hjeradi, einnig sakar-adilinn Hákon Jónsson og Sýslumadur H. Jakobsson, sem Dómari í Hjeradi, serhvørr ad svara til

til þess er honum vidkiemur, og lída dóm; stefnan les-
in og merkud lit. B. Eptir stefnunni mætir Vísi-lög-
madur J. Olafsson uppá Lögmanns S. Sölvasonar
og eginn vegna, en hvörki mætti Sýslumadur H. Ja-
kobsson nie heldur Hákon Jónsson, þótt upphrópadir
værn; hefir þó annars stefnan þeim löglega birt verid,
sem uppáskriftirnar sýna. Vísi-lögmadur J. Olafsson
prótesterar ad svara til málsins, án þess sakar-adilinn
Hákon Jónsson se til stadar. Þar til svaradi Rett-
urinn:

Þessi sök skal, eptir konúnglegri Op-
reisning, nú fyrirtakast.

Þar eptir var framlagdur Lögþíngis Prósess og
dómur í þessu máli, af 12ta Júlí 1760, í hvörs slútn-
íngu Sýslumadur E. Olafsson er dæmdur í 60 lód
sylfurs bætur, sem Prósessinn framar med ser ber, les-
in og markadur lit. C. Sýslumadur E. Olafsson
framlagdi innlegg af dags dató, hvar med hann vill af-
saka sína veigrún ad gefa Vísi-lögmanni J. Olafssyni
þíngdag í Hjeradi, í þessu arfa-þrætu máli Hákonar,
sem innleggid framar sýnir, lesid og markad lit. D.
Annad innlegg framlagdi nefndur Sýslumadur mót
dómi Lögmanns S. Sölvasonar, sem hann bidur verdi
upphafinn, lesid og markad lit. E. Frá Lögmanni S.
Sölvasyni framkom innlegg af 30ta Júní næstl., í
hvörju hann forsvarar sinn-afsagda Lögþíngis dóm, og
beid-

beidist, ad hann verdi stadfestur, en ser tildæmist Satisfaktsión, kostur og tæríng, fyrir ránga og óþarfa málsýfíngu, sem innleggid framar sýnir, lesid og markad lit. F. Visi-lögmadur J. Olafsson uppástendur Löyþíngis dómsins stadfestíngu, samt kost og tæríng fyrir óþaudsynlega innstefníngu þessa máls. Aktor refererar sig til framlagdra innleggja og Hjerads Prósessins. Partarnir qvádust eckert hafa meira ad framfæra, var því málid til dóms upptekid.

## Num. II.

Þann 16da Júlí settist Yfir-retturinn ad nýju, og afsagdi eptirfylgjandi dóm:

Þad er med eidsvornum vitnum ad Ögri, þann 27da Septembr. 1758, ánægjanlega sannad, ad Sýslúmadur E. Olafsson hafi, ecki einúngis án allra löglegra orsaka, þann 22ann Apr. s. á., veigrad og neitad Visi-Lögmanni J. Olafssyni Réttar og þíngdags, er Visi-lögmadurinn, eptir hafandi fullmakt, dat. þann 3ja s. m., af Hákoni Jónssyni, hans vegna fyrir Rétti bei.jerdi, í arfa-réttar sök Hákonar móti Gudmundi Jónssyni á Bjarnastødum, heldur og, þegar Visi-lögmadurinn ad nýju skriflega beiddist stefnuvotta og þíngdags í þessu máli, þann 28da s. m., hefir uppá begjeríngunu, med Sýslumanns E. Olafssonar þeckjanlegri egin hendi,

ver-

verid svarad óarundudum útflugtum og Indvendinger, án hans nafns undirskriftar, er hañ hefir ecki viljad vera bekénndur, hefir svo Þíngdagurinn, enn Þótt munnlega og skriflega tvísvarsinnum begérdur verid hafi af Sýslumanninum, hvorki fenaist tiltekinn nè eptirlátinn, hvors vegna Hákon hefir neydst til ad hafa, svoböid, þótt Gudmundur Jónsson, meir enn heilt ár, sæti í hans formeintu eignum, og hlotid ad tapa arfs tilkallinu, ad óprófudu, hvert Þad var grundad edur ecki; hvør Sýslumannsins veigrun og sakarinnar ólöglegt uppihald, hefir orsakad Hákoni fullkominn réttar-spillir; Því dæmist rètt:

Sýslumadur **E. Olafsson** skal, fyrir slíka sína ólempi, betala í Reparatsíón og málskostnad til sakfóknarans, 16 rdli. krón., hvørjum hann og skal forfríska sökina á eginn kostnad. Til Hallbjarnareyrar Hospítals betali hañ 4 rdli. krón., hvørjar bætur luktar séu innan nærstkomandi Michaelis-messu, undir adfør og Exekútsíón ad løgum.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

B. Markússon. B. Haldórsson.

P. Magnússon. J. Snorrason.

J. Eggértsson. S. Sigurdsson.
P. Níkólaison. Arngrímur Jónsson.
Þorkéll Þórdarson. Gudmundur Eiríkss.
Einar Hafliðason. Gunnlaugur Olafsson.
Eiríkur Hafliðason.



Annó 1765, þann 16da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórum.

Mætti í Yfir-réttinum Sýslumadur E. Olafsson, sem Aktor, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 17da Júlí 1764, undir Amtmanns O. Stephánssonar nafni, med hvørri stefnist Vísi-løgmadur J. Olafsson, til ad forsvara sitt afsagt Interlókutorium, þann 12ta Júlí s. ár, med vídara, sem stefnan sýnir, lesin og merkud lit. A. Þar nærst framlagdi Sýslumadur E. Olafsson áminnst Interlokutorium, hvar med hann dæmist ad skuli tapad hafa øllum sínum Prætensióner, sók og sókn, til Kaupmanns David von Einen, og annara vidkomenda; lesid og markad lit. B. Enn þá framlagdi Sýslumadur E. Olafsson innlegg, sem eru hans ástædur og

Irettesættelser í þessari sök, sem það framar sýnir, lesið og markað lit. C. Vísi-lögmaður J. Olafsson mætir, sem Defensor, og framlagði innlegg af dags dató, sem eru hans afsakanir móti Sýslumanns E. Olafssonar ákjærum, með frekari ásiædum og Irettesættelser; það lesið og markað lit D. Meira framfærðu ecki partarnir undir endilegann Yfir-rettar dóm, er þannig var afságður:

Það er að sjá af Lögþíngis Bókarinn-ar 1763 No. 11., að Sýslumaður E. Olafsson hafi sama ár mætt í Lögþíngis-rétt-inum, og gjört þar anhængig eina sök, rís-andi af sölu Kaupmanns Davids von Einen á nockrum, af Sýslumanni E. Olafssyni til ens fyrra Íslands Kompagnies, pantsettum jarðarpörtum, í hverri enginn dómur hefir gánga kunnað, vegna Kaupmannsins útivist-ar, hvorjum lögdagur lagður var til næsta Lögþíngis 1764, en hefir þó hvorki mætt í egin persónu né fyrir fullmektugann, ecki held-ur Sýslumaður E. Olafsson, til þeis 12ta Júlí, þá málspartarnir vóru af Réttinum uppkrópaðir; hvörs vegna, svo sem enginn við-komenda var nálægur, og eckert Paastand af portunum gjört, sökinni byrjaði að standa op-inni í Prótókollen, og hún vera ódæmd, sem mogulega forlikuð og í Mindilighed afgjørð; því dæmist rétt:

**Dómur Vísi-lögmanns J. Olafs-sonar, á ecki að præjudicera sök eður**

sókn

sókn Sýslumanns E. Olafssonar; heldur skal honum, í krapti af þessum Yfir-réttar dómi, standa frítt fyrir að framhalda sinni søk móti Kaupmanni David von Einen, og ødrum viðkomendum, þegar hann þar til løglega á ný stefnir. En með því hann, með sinni oflaungu útivist og óløglega gjørðu uppihaldi í framhaldi sakarinnar, hefir gésið nockra, enn þótt ecki fullkomna orsøk til Visi-løgmannsins frávísunar doms þá dœmist honum þar fyrir hvørki nockur Reparatsíón né málskostnaður.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| S. Sølvason. | B. Markússon. |
| P. Magnússon. | B. Sigurðsson. |
| P. Jónsson. | J. Arnason |
| M. Kétilsson. | G. Runólfsson. |
| P. Axelsson. | P. Gudmundsson. |
| B. Jónsson. | J. Jonsson. |





# Annó 1766, þann 17da Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessórum.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur Þ. Axelsson, og framlagdi Amtmanns O. Stephánssonar skickun af dags dató, til ad vera Talsmadur í duls-máli sakakonunnar Þorbjargar Jónsdóttur; skipanin lesin og merkt lit. A. Þar nærst framlagdi nefndur Sýslumadur Yfir-rettar stefnu, af 23ja Dec. 1765, med hvørri stefnast, Løgmadur B. Markússon og Sýslumadur Þ. Magnússon, til ad forsvara þeirra afsøgdu Løgþingis- og Hjeradsdóma í duls-máls-søk nefndrar Þorbjargar, og hún siálf til ad líða endilegann Yfir-rettar dóm; stefnan lesin og merkt lit. B. Einninn framlagdi Sýslumadur Þ. Axelsson Hra. Stiptamtmanns Greifa Rantzaus bref af 4da Maí 1765, áhrærandi innstefníngu þessa máls; lesid og markad lit C. Lika svo framlagdi hann Attést af 10da og 20ta Dec. 1765, vidkomandi sakarinnar Appelli; lesid og markad lit. D, samt eitt annad af 22rum Októbr. s. á. af sama innihaldi, lesid og markad lit. E. Sídan framlagdi Sýslumadur Þ. Axels-

P. Axelsson Hjeradsog Logþingis Próseſs og dóm i málinu, slúttadur 11ta Júlí 1764; lesinn og markadur lit. F. Ad síduſtu framlagdi Sýslumadurinn innlegg af dags dató, hvar i hann uppástendur, ad Logþingis dómurinn liniſt; m. m.; lesid og markad lit. G. Logmádur B. Markússon uppástendur munnlega, ad sinn dómur verdi stadfestur. Saka-konan af Rettinum yfirheyrd, medgengur eckert frekara enn Hjerads-Próseſſin hermir. Meira var ecki af vidkomendum framfært, hvors vegna Yfir-retturinn aſſagdi eptirſylgjandi dóm i þeſſu máli:

Af þeim i Héradi leiddu vitnum og pródúcerudu-Attestum i þeſſu máli, finnast engin rok eda líkur til, ad saka-konan Þorbjörg Jónsdóttir hafi viljad fyrirkoma édur af lífi taka þad fóstur, er hún i heiminn fæddi ondverdlega i Apr. mánudi 1764, heldur er þvert á móti sannad og gottgjort, ad hún hafi i fyrsta sinni þá ransókn gjordist um hennar barns fædíngu, játad sig seka i þeim karlmanns tilverknadi, er barns-þúnga olla kynni, og þar med géfid tilefni til eptirfylgjandi gjordra eptirgrenſlana; svo hefir og Oddný Jónsdóttir med svornum eidi sannad, ad Þorbjörg hafi leitad sinnar adstodar, þá barns-fædíngin skyldi skéd hafa, er hún henni sinjadi, en líkami barnsins svo ófullkominn, rotinn og runninn, ad ecki er álitinn med lífi kunna fædst hafa, hvad allt gjorir Þorbjörgu fría frá



dulsmáli í þessari sök. En sökum þess, ad hún hefir engi og óforsvaranlega leynt sinni barns-fædingu, og ecki sem byrjadi med þess andvana líkama höndlad, svo dæmist rétt:

**Þorbjørg Jónsdóttir** skal, fyrir slíka hennar yfirsjón, erfida 3 ár í Íslands Tukthúsi. Er svo Løgþíngis dómurinn hér med ad því leiti modereradur.

*Actum ut supra.*

O. Stephánsson.

S. Sølvason. J. Olafsson.
B. Haldórsson. E. Olafsson.
P. Þorsteinsson. D. Schéving.
M. Kétilsson. G. Runólfsson.
J. Eggértsson. H. Jakobsson.
J. Helgason. S. Sigurdsson.
V. Jónsson. G. Hjørleifsson.



Anno 1767, þann 15da Júlí, var Yfirrétturinn settur, undir Præsidio Amtmanns O. Stephánssonar, med undirskrifudum Assessorum.

NUM.

## Num. I.

Mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur P. Axelsson og framlagdi Amtmannsins skipun af dags dató ad gánga í Rett vegna Gudrúnar Eilífsdóttur; lesin og merkud lit. A. Framlagdi því næst Yfir-rettar stefnu af 12ta Dec. næstl. yfir Løgþíngis dómi Løgmanns B. Markússonar afsøgdum 10da Júlí 1765, í barnsfædíngar eda dulsmáli nefndrar Gudrúnar, hvar med og fleiri sakarinnar vidkomendur innstefndir eru, sem stefnan framar med ser ber, lesin og merkud lit. B. Allir vidkomendur eda þeirra fullmektugir mæta. Sýslumadur S. Sigurdsson framlagdi Amtmannsins skickan til sín, ad gánga í Rett vegna Jóns Magnússonar, og honum til forsvars, svo vidt málid kynni honum vid koma; lesin og merkud lit. C. Þessu næst var framlagdur Hierads og Løgþíngis Próséss í sökinni, af hvørjum þau merkilegustu atridi vóru, ad partanna beidni, uppl.esin, samt Sýslumanns og Løgmanns dóms-slúttníngar, sem tilfinna Gudrúnu Eilífsdóttur, fyrir framid duls-mál, ad straffast á lífinu, med ad hálshøggvast og høfudid á stiaka uppfestast; Prósessinn markadur lit. D. Var sídan saka-konan af Yfir-rettinum náqvæmlega yfirheyrd um sakarinnar ásigkomulag, svo vel sem Jón Magnússon, af henni útlagdur barnsfadir, og bædi þau alvarlega áminnt ad segia sannleikann, en eckert fieckst meira af hvørum þeirra, eda medkjenníngu, enn Hierads og



Løgþingis Próſeſſarnir herma. Sýſlumadur P. Axelsſon uppáſtendur, ad Løgþingis dómurinn verdi linadur. Partarnir høfdu eckert meira ad framfæra, hvørs vegna Yfir-retturinn affagdi ſvolátandi dóm:

Eptir leiddum vitnum og egin óneyddri medkénningu ſaka-konunnar Gudrúnar Eilífsdóttur, er ſannad og tilſtadid, ad ſvo vel um hennar medgaungu tíma, ad því barni, er hún í heiminn fæddi ad Víſilsſtødum um veturnætur 1763, ſem og þá ſjálf fædingin ſkédi, hafi hún viljad umgángaſt, eins og hún verulega hefir umgengiſt þar med í dulsmáli, og eckí leitad þeirra almennu medala, þá fædingin ſkédi, ſem barninu hefdi mátt til lífs og frelſis vera, hvørt hún andvana hefir annad hvort ſjálf leynilega ſídan nidurgrafid, edur látid nidurgrafa; því dæmiſt rétt:

Saka-konan Gudrún Eilífsdóttir ſkal, eptir þeim yfir henni gengnu Héradsog Løgþingis dómum, fyrir ſinn framda glæp miſſa lífid, med eggſi hálshøggvaſt og høfud hennar á ſtjaka uppſetjaſt; þó má engin Exekútſíón eptir þeſſum dómi yfir henni framfara, fyrri enn í þeirri hér af hángandi barnslýſíngar ſøk, er ſtadfeſtíngar eidur af henni tekinn, til ſtyrkíngar hennar barns-fad-

ern-

ernis áburdi uppá Jón Magnússon, eptir þar um gengnum Logþíngis dómi 1764, edur sami dómur verdur undirkénndur, samt bádar þessar sakir Hans Konúngl. Hátign allraundirgéfnast refereradar, og þar uppá allranádugasta úrlausn innsend. *Actum ut supra.*

D. Stephánsson.

S. Solvason. J. Olafsson.
P. Magnússon. J. Snorrason.
P. Sigurdsson. D. Schéving.
H. Jakobsson. J. Eggértsson.
L. Gudmundsson. M. Gíslason.
J. Arnórsson.

## Num. II.

Þann 16da Júlí mætti í Yfir-réttinum Sýslumadur J. Eggértsson, og framlagdi Amtmannsins skickun af dags dató, til ad uppátala ádurgengna dóma í dulsmálssök Sigurdar Valdasonar og Geirlaugar Þorsteinsdóttur, lesin og merkud lit. A. Þar næst framlagdi Sýslumadurinn Yfir-réttar stefnu af 17da Jan. þ. á, med hvörri, stefnast Lögmadur B. Markússon og Sýslumadur J. Helgason, ad svara til þeirra ádur afsagdra dóma í sökinni, sömuleidis saka-persónurnar Sig-

nrdur Valdason og Geirlaug Þorsteinsdóttir til ad lida dóm; stefnan lesin og merkud lit. B. Hierads og Lögþingis Prófess í málinu var framlagdur, í hvörs slúttningu saka-persónurnar eru, fyrir framid dulsmál, dæmdar í Íslands Tukthús; Prófessinn lesinn og markadur lit. C. Aktor framlagdi innlegg, hvar í hann uppástendur, ad sökin í Hieradi hafi ecki til gagns examinerud verid, og þurfi henni því naudsynlega aptur í Hierad ad heimvísa, m. m., sem innleggid hermir, lesid og markad lit. D. Einnig vóru framlagdir 2 Reikningar, sá eini áhrærandi kostnad til ad auglýsa stefnunna, en hinn uppá undirholdning saka-persónanna í Tukthúsinu frá 16da Júlí nærsil. árs til datum; þeir lesnir og markadir litt. E. og F. Sýslumadur H. Jakobsson mætir sem Prókúrator, uppá saka-persónanna vegna, eptir Amtmannsins skickun af dags dató, sem var lesin og merkud lit G. Hann uppástendur munnlega, ad hans ádur fyrir Lögþingis-retti gjört Paastand í þessari sömu sök, verdi vel adgætt saka-persónunum til frínunar, en mótmælir þeirra vegna sakarinnar heimvísun í Hierad, bidur einnig ad vera þeirra í Tukthúsinu takist til yfirvegunar. Innlegg var framlagt frá Sýslumanni J. Helgasyni af 12ta Júni nærstl., í hvörju hann vill hafa sínar adgiördir í Hieradi rettlættar, sem innleggid framar med ser ber, lesid og markad lit. H. Meira qváduft partarnir ecki hafa ad framfæra, var því af Yfir-rettinum eptirfylgjandi dómur í málinu afsagdur:

Þad

Það er auglióst fyrir þessum Yfir-rétti, af yfirskodun og náqvæmri yfirvegun Hérads Prófessins, í dulsmáls prófun saka-persónanna, Sigurdar Valdasonar og Geirlaugar Þorsteinsdóttur, ad það mál er enganveginn svo vel og fullkomlega ransakad, sem log og forordníngar tilhalda; því dæmist rétt:

Þeir afsøgdu Hérads og Løgþíngis dómar í þessu máli, skulu vera upphafdir og ad engu gjørdir, en søkinni ásamt saka-persónunum er aptur í Hérad heimvísad, til fullkomins prófs og ransaks, og þar uppá afsegjandi dóms, allt uppá Sýslumanns J. Helgasonar kostnad, sem fyrir sína forsómun skal borga 1 rdl. til Jústits-kassans. Yfir-réttar stefnunnar auglýsíngar kostnad borgi Sýslumadur J. Helgason med 4 rdlm krón. til Jústits-kassans, er þá peninga til sakarinnar driftar útlagt hefir. Uppá saka-persónanna undirholdníng í Tukthúsinu, svara Undir- og Yfir-dómari í þessari søk, 6 rdlm. kúr. hvorr um sig, hvad allt skal lukt vera til vidkomenda,

inn-

innan nærstkomandi Michaelis-messu, undir ádfør og Exekútsíon ad løgum.
*Actum ut supra.*

D. Stephánsson.
S. Sølvason. J. Olafsson.
P. Magnússon. P. Sigurdsson.
S. Sigurdsson. D. Schéving.
G. Runólfsson. P. Nikólaison.
L. Gudmundsson. P. Axelsson.
M. Gíslason. J. Arnórsson.

## Num. III.

Þann 17da Júlí mætti í Yfir-rettinum Stúdíósus H. Þorgrímsson, vegna Sýslumanns B. Haldórssonar, og framlagdi Yfir-rettar stefnu, teiknada á Løgþingis Prófessinu, genginn í mords-máli Jóns Jónssonar af Húnavatns-sýslu, til allra vidkomenda í skinni, til ad heyra Yfir-rettar dóm í þessu máli, í hvøriu Jón er dæmdur af Løgþingis-rettinum, ad erfida í járnum í Citadellet Friderichshavn, sína lífstíd; Prófessinu les-inn og markadur lit. A. Sýslumadur P. Axelsson, af Amtmanninum skickadur svara-madur saka-manns Jóns, uppástendur ad Løgþingis dómurinn verdi mildadur, þar mordid se ecki fullsannad uppá sakamanninn. Stúdíó-sus H. Þorgrímsson uppástendur þar á móti Hjeraðs dóms

dómsins stadfestingu. Sakamadurinn af Rettinum yfir-heyrdur, játar sig átt hafa barns-þúngann med Helgu Símonsdóttur, en neitar mordinu. Pártarnir at-spurdir hvort meira hefdu ad framfæra? svørudu: nei! fiell því svolátandi Yfir-rettar dómur.

Sá af Løgmanni S. Sølvasyni, hann 10da hújus, afsagdi Løgþíngis dómur yfir stórbrota-manninum Jóni Jónssyni, er af Yfir-réttinum stadfest-ur. *Actum ut supra.*

Ó. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | S. Sigurdsson. |
| P. Magnússon. | P. Níkólaison. |
| P. Sigurdsson. | G. Runólfsson. |
| J. Eggértsson. | L. Gudmundsson. |
| H. Jakobsson. | S. Sigurdsson. |
| M. Gíslason. | J. Arnórsson. |

## Núm. IV.

Sama dag mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 25ta Júlí 1766, med hverri til upphafníngar innstefnist einn af Løgmanni S Sølvasyni afsagdur Løgþíngis dómur þann 21ta Júlí sama ár, áhrærandi burtsøln nockurra jardar-parta, af Kaupmanni D. von Einen þann 15da Aug.

Aug. 1760, sem Sýslumadur E. Olafsson pantsett hafdi til ens íslendska Hondlunar Kompagnies; einnig stefnasi Sýslumadur S. Sigurdsson, ad forsvara sinn Hjerads dóm í þessu máli, og Kaupmadur D. von Einen ad forsvara salu sína á nefndum jordum, sem stefnan framar sýnir, lesin og morkud lit. A. Logþingis Próséss í þessu máli framlagdi Sýslumadur E. Olafsson, í hvors slúttníngu sala Kaupmanns D. von Einen, og Hjerads dómur þar um genginn, eru stadfest; Prósessinn lesinn og markadur lit. B. Sýslumadur L. Gudmundsson framlagdi Amtmannsins skickun til sín, ad svara til málsins, vegna Kaupmanns D. von Einen; lesin og morkud lit. C. Logmadur S. Sólvason og Sýslumadur S. Sigurdsson mæta bádir, ad svara til sinna Dómara-verka í þessu máli. Sýslumadur E. Olafsson framlagdi innlegg af 16da hujus, hvarí hann framfærir allann málsvorxt, og uppástendur Hjerads- og Logþingis-dómanna upphafníngu, en ser verdi, bædi af Dómurum og Kaupmanni D. von Einen ánægjanleg Satisfaktsión tildæmd; innleggid lesid og markad lit. D. Logmadur S. Sólvason uppástendur sinn dómur stadfestist, sem á logum og sannsýnl grundadur. Sýslumadur L. Gudmundsson uppástendur þarámóti, ad Kaupmanns D. von Einens adgiordir í þeirra pantsettu jarda solu, verdi álitnar loglegar, og honum tildæmist ánægjanleg Satisfaktsión af

Sýslu-

Sýslumanni E. Olafssyni, fyrir orsakada mœdu og kostnad í þessari sok; hid sama uppásiendur Lögmadur S. Sölvason og Sýslumadur S. Sigurdsson. Meira höfdu ecki partarnir ad framfæra undir endilegañ dóm, sem þannig var af Yfir-rettinum afsagdur:

Ad sönnu hefir Sýslumadur E. Olafsson undir 6ta Sept. 1762, stefnt Kaupmañinum D. von Einen á þann 11ta s. m., ad mæta á Túngu þingi, til ad áheyra, samt eptir væntanlegum dómi antaka þá af honum framleggjandi Contra- og Liqvidations-reikn-ínga, móti hans Pant-Obligation, til fyrrverandi Islands Hondlunar Félags, hvorri stefnu hefir frávísad verid af Sýslumanni S. Sigurdssyni, vegna ofnaums stefnu-frests; en sídar, þá Sýslumadurinn aptur innstefndi sokinni til þess 30ta Sept. á sama þingstad, hefir hann þessum sínum reikníngum fráfallid, og þá ecki í stefnunni á nafn nefnt; hvörs vegna Undir- og Yfir-dómari í málinu, svo vel sem og í tilliti til þess, ad reikníngarnir væru ecki lóglega sannädir, og ættu því ecki ad gylda móti Sýslumanns E. Olafssonar lóglegri Pant-Obligation, hafa frávísad þeim, sem oldúngis óantakanlegum, en stadfest sölu Kaupmanns D. von Einens á þeim af Sýslumanninum pantsettu jordum, eptir hans egin Obligation og Forskrivelse; því dæmist rett:

Þeir

Þeir affögdu Héraðs og Løgþingis-dómar í þessu máli, eru af Yfir-réttinum, sem réttvísir og løgum samqvæmir, að ollu leiti stadfestir; en Sýslumanni E. Olafssyni standi frítt fyrir að framfæra þessa sína reiknínga móti því fyrrverandi Hondlunar Kompagnie og D. von Einen, á réttum stad og tíma, eptir egin velþóknun.

*Actum ut supra.*

D. Stephánsson.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | S. Sigurdsson. |
| P. Magnússon. | P. Sigurdsson. |
| D. Schéving. | P. Nikólaison. |
| J. Eggértsson. | G. Runólfsson. |
| H. Jakobsson. | P. Axelsson. |
| M. Gíslason. | J. Arnórsson. |



Að þessi Yfir-rettar Acta seu rett útskrifud af Yfir-rettar Þingbókinni, fyrir þessi framanskrifudu 5 ár, og henni samhljóda, vitnar

B. Stephensen.



